# Forordning
Um
# Uppvaxandi Barna
# CONFIRMATION
Og
# Stadfesting
# J þeirra Skyrnar Hauttmaalá.
Frideriks-bergs Sloti þañ 13. Januarii, 1736.



Kaupmannahøfn,
Prentud i Hans Kongl. Majests. og Univ. Bok-þryckirie,
af Johan Jørgen Høpffner.

# Vier Christian Siøtti af Guds Naad, Kongur ad Dan-

mørk og Norveg, Vinda og Gauta; Hertogi i Slesvik, Holsten, Stormaren og Ditmersken; Greifi i Oldenborg og Delmenhorst. Giørum øllum vitanligt, ad Vier, eptir gooda og velgrundada Yfirvegan, sem og nockra Biskupa Vorra, af Vorri Tilskipan, i stærstu Undirgefni Oß tilsenda Umþeinking, høfum fundid, ad Vorum kiæru og trwlyndu Undirsaatum, einkanligast þeim uppvaxandi Ungdomi til Gagns og Uppbyggingar verda megi, sw fyrir ærid laungum Tijma i ymsum Stødum i Kristinndomiñ innfærda, og i mørgum Evangeliskum Søfnudum, sierdeilis, i Vorum egiñ Hertuga og Herra-dæmum ad miklu leiti nw veniulig ordin Barna Confirmation, edur Opinberlig Stadfesting i þeirri Naad, sem þeim var veitt i Skyrninni, þeirra Barna, nefniliga, sem i fyrsta sinni vilia gaunga til GUds Bords, yrdi og svo lijka innfærd og vidtekin i baadum Vorum Rijkium Danmørk og Norvegi, ad menn þvi betur uppfræddu Børnin til so Heilags Verks, sem Brwkun Altarisins Sacramentis er, samt kostgiæfiliga uppvektu þau til stødugs Trwskapar i þeirri Naad, sem þau hafa feingid i Skyrninni, lijka einnin ad þeir fullordnu aamintir yrdu aa þañ Saattmaala, sem þeir hafa heitid Gudi i Skyrninni, og aa þau Lofun, sem þeirra Gudfedgin hafa giort fyrir þau; svo ad med þessum Hætti øllum Soknar-mønnum inniliga innrætt verdi þeirra Skyllda, og þeim fullkomin Uppvakning gefist til

allrar

allrar goodrar og avaxtarsamrar Uppbyggingar i þeirra Krist-inndomi. Þessvegna er Vor Allranaadugasti Vilie og Skipan, ad þetta Kristiliga, gamla, nytsamliga og losverda Verk uppbyriest a þann Hatt, sem hier er fyrirskrifadur, og frammflytiest i øllum Søfnudum i baadum Vorum Rijkium, og stadfastliga geimist, nefniliga:

1.

Barnanna Confirmation og Innvijgsla, so og þeirra opinberligt Examen og Yfirheyrsla skal vera almen Regla og fullkomin Skyllda, sem øll Børn i Søfnudinum, eingu fraaskildu, af hveriuhellst Standi og Virduleika þau eru, skulu obrigdanliga tilskyldast, so ad eckert Manngreinar-Allit orsaki hina minstu Missklijd i Samkundunni.

2.

Eingin Børn meiga Confirmerast, sem eigi hafa adur geingid i Skoola, eda verid uppfrædd i þeim sterligustu Kristindomsins Høfud-Greinum; en þar eingir opinberir Skoolar eru stiptadir i Søfnudinum, þa skulu þau fyrst af Diaknanum, eda ødrum hæfum Manni, leidast til ad þeckia GUd, adur en þau ad sijdustu verda af Prestinum uppfrædd i Skilningi Frædanna, yfirheyrd og confirmerud.

3.

Af þvi margir Forelldrar gleima tijdt og opt sinni Skylldu, i þvi ad laata uppfræda sijn Børn i Tijma, þa skal Kennimadurinn i Søfnudinum gefa goodar giætur ad, hvert þeim Børnum, sem snarliga aasetia sier ad ganga til GUds Bords (uppa hver hann i Tijma skal giøra sier Registur, ad so miklu leiti sem ordid getur) hefur verid af þeirra Forelldrum halldid i Skoola, en hafi þeir verid hirdulausir i þvi, a han ad uppørva þa þar til; Vilie þeir a eingan hatt laata uppfræda sijn Børn, og Børnin nær þau frammkoma eru o-upplyst, þa skal Kennimadurinn þau ej confirmera, allt so leingi þau eigi hafa betri Uppfræding sengid.

4.

Kennimadurinn skal ei alleinasta i þeim vanaligu Examinibus i Kirkiunni æfa þau Børn framar ødrum med Spurn-

ingum og Andsvörum, sem frammbodin verda til Confirmation, helldur og einnin skal hañ Arinu aadur, eñ hañ hugar þau muni vilia frammkoma, laata þau þeß aa millum, eptir þvi sem hans Embættis Kringumstædur eru, koma til sijn i sitt Hws, til ad undirvijsa þeim i þeirra Kristinndomi, med þeim Hætti, ad þau ei einasta faai Skilning aa Meiningunni, eptir Bokstafnum, i þeim naudsynligustu Trwarinnar Greinum, helldur og einnin verdi upphvött til ad naa þar af lifandi Þeckingu, og ydkist þar i; so ad Börnin, undireins og GUds Sannindi verda þeim kroptugliga og alvarliga fyrir Sioonir sett og innrætt, uppvekist til ad gefa Rwm Sannleikanum, og faai sannañ Smeck og andliga Reinslu til ad eptirfylgia hönum i þeirra Lijferni og Frammferdi: J einu Ordi ad segia, komist til sannrar Hiartans og Sinnisins Ummvendunar.

5.

Pad Confirmations Tijmanum vidvijkur, þaa skal, ad Dæmi þeirrar Fyrstu Kyrkiu, saa Fyrsti Sunnudagur eptir Paaska, sem kalladur er: Qvaſi modo geniti, þar til vera skipadur; eñ hvar Safnadirnir eru stoorir, maa saa Fyrsti Sunnudagur eptir Michaelis Messu, eda, og þar Sooknirnar eru ærid stoorar, saa Fyrsti Sunnudagur eptir Nytt-Aar þar til halldast: Kennimadurinn skal eptir sinni goodri Skynsemi hafa giætur aa, ad ei verdi mot ofmörgum tekid i-señ til Confirmation, og ad fremur sie giætt ad þeirra Dugnadi eñ Alldri. A þeim Dögum, sem skickadir eru til Confirmation, skal Presturinñ, Daginñ sem Confirmationin aa ad halldast, haga so sinni Predikun, ad hwn verdi sem allra styttst, so ad öll GUds Pionustugiörd med Predikun Saung og Confirmation endist eins snemma og vant er, ad ei verdi fyrir Folkinu tafid, eda þad þursi ad finna sier Orsök til ad gaanga wt af Kirkiunni, aadur eñ Confirmationin og öll GUds Pionustugiörd er til enda; Þeßvegna vilium Vier Allra-naadugast, ad eingin Communion edur Sacramentis Fram-reidsla sie aa þeim Dögum framin, sem Confirmationin frammfer, eñ i Vorum Konungliga Reſidentz-Stad Kaupmannahofn og slijkum Stödum, hvar Soknar-Folkid er margt, og þeß kañ vid ad þurfa,

maa

mu Communionin, ai þeim sömu Dögum, i stadin fyrir Hau-Messu af Hendi hefiast i Morgun-Messunni.

6.

Þegar lijdur ad þeirri Arsins Tijd sem Confirmationin og Stadfestingin uppa Skyrnar Naudina skal halldast, skulu Foreldrarnir lata Kennimanniñ vita i Tijma, ad þeir eiga Börn, sem ætlud eru til ad confirmerast, hver hañ lati koma til sijn, heim i sitt Hws, ad hañ vita fai, hvernig þau grundvollud eru i sijnum Kristindomi, yfirheyri þau og uppfrædi; Eñ hvad morgum Vikum fyrir Confirmationina þvijlijkt skuli giorast, er hvers eins Kennimanns goodri og gegniligri Skynsemi tiltrwad ad athuga, so og, ad hañ hegdi sier eptir þeim Kringumstædum sem vidkoma hans Söfnudi, og eptir þvi sem þeirra Naudþurft wtkrefur; ad minsta kosti, skal þvijlijkt ske halfu Missiri adur, og tvisvar i hverri Viku: A þeim Stödum, hvar tvær eda fleiri Predikanir eigi halldast, eda Embættis Utrettingar eru ei so margar, skal Kennimaduriñ taka Börnin ai Sunnudagiñ eptir Messu, og um Föstuna eptir Passions Predikunina i Vikunni heim i sitt Hws, og uppfræda þau, þvi Börnin eru opt i Fiarlægd, og ai ödrum Dögum hlioota þau ad gegna sinu Erfidi og Vinnu.

7.

Þad Uppfrædinguna, i sier sialfri, ahrærir, þa ai Kennimaduriñ ad kappkosta, ad hañ giori hana so skilmerkiliga og vinsamliga, sem hañ best getur; og nær hañ frammtelur þau guddomligu Sannindi, skal hañ vid hveria Grein frammfæra nockrar Hiarta-gegnum-þreingiandi Uppvakningar til allra gudligra Idkana ad kostgiæfa, þess ai millum spyrie hañ Börniñ, hvert þau hafi eigi reint og fornumid neitt af þeim eda þeim Sannleiksins Krapti i sijnum Salum; Og so sem hañ uppfrædir þau öll sameginliga, skal hañ endur og sinnum taka þad eina og annad Barnid fyrir sig sier i lagi, og spyria þad um þess Salar Asigkomulag, hvert þad merki hiai sier nockra Umvendan og Trw, og viti hañ til hverra Synda eitt eda annad Barn er hneigt, og hvernig fyrir þvi er aistatt i einhverium sierligum Kringumstædum, skal hañ af medaumk-

A 3 unar-

unarsømum Kiærleika setia sama Barni fyrir Sionir þess Saalar eymdarligt Asigkomulag, og annadhvert syna þvi og gefa Tækifæri til sannrar Ummvendunar, ellegar stadfesta þad i þvi hinu Gooda.

8.

Ef Kennimadurinñ reinir, ad giordri aanæganligri Uppfrædingu, ad þau eda þau Børn eru eigi i þvi Asigkomulagi, ad hañ megi þau confirmera, þa byriar hønum i allri Ast-semi ad setia þeim og þeirra Forelldrum þad fyrir sionir, sannfæra þau þar uñ, og raadleggia þeim ad laata þvijlijkt heilagt Verk bijda til nærsta Tijma þar eptir; eñ vilie þeir ei med goodum Ordum þad skilia, skal hañ vijsa þeim fraa, þo med þeirri Forsiaalni, ad hvad helst hañ gierir i þvi Efni, þa sie hañ alltijd skylldur þad ad forsvara, ef Barnid eda þess Forelldrar kunna aa tilhlydiligum Stødum ad kvarta yfir Kennimanninum, ef þeim kañ þykia sier vera i nockru þesshaattar opinberliga ofþyngt af hønum: Eñ þau Børn, sem hañ sannliga reinir duganlig og hentug, þeim skal Kennimadurinñ, þegar lijdur undir Confirmations Daginñ, undirvijsa uñ Confirmationens Eginligleika, Haattalag, og Heilagleika, ad þau þaa siaalf skuli itreka og stadfesta hañ Saattmaala, sem Gudfedginin vid þeirra Skyrn giørdu fyrir þau, og ad þau nw aa þessum Døgum ransaki sig vel fyrir GUdi, hvernig þau hafa halldid siñ Skyrnar Saattmaala, og hvert þau finni sig i þvi Asigkomulagi, sem GUd hafdi veitt þeim og unt i Skyrninni, annars sieu þau eigi verd ad frammkoma fyrir Drottiñ, eda Augsyn nockurs Kristins Safnadar.

9.

Kennimadurinñ skal Atta Døgum aadur laata Søfnudinñ vita nær Confirmationin skal halldast; Eñ aa Confirmations Deginum skal hañ af Kostgiæfni leita þess Efnis, med hveriu hañ i sinni Predikun wtþydi þessa Giernings Vigtugleika, og jafnframt uppervi giørvallañ Søfnudinñ til hiartanligrar Bænar fyrir þeim, sem þaa skulu confirmerast, þessvegna skal hañ siaalfur af Predikunar stoolnum, aasamt Søfnudinum aakalla GUd med hiartnæmri Bæn.

10. Þegar

Þegar Confirmationin ꜳ ad flytiast, skal strax eptir Predikunina ꜳdureñ siw gudliga Confirmations Fram-færsla byriast, hefiast ad syngia: Kom Skapari Heilagi Andi; A medan lꜳti Kennimaduriñ Børnin koma innar fyrir Alltarid, eda gꜳngi hañ fram̃ ꜳ Kirkiu-golfid, hvar Pilltarnir skulu standa vid eina Sijdu, eñ Stulkurnar vid adra; Sijdan byrie hañ þetta heilaga Verk med hiartnæmri Bæn, brwki stuttann Formꜳla, ꜳn langrar Rædu, þvi hans Embætti er þꜳ hid hellsta ad gefa Børnunum Orsøk til med Spurningum, ad giora øllum Søfnudinum grein ꜳ þeirri Von, sem þau hafa: Eñ i Yfirheyrslunni sialfri yfirfari hañ annadhvert þꜳ sim̃ Høfud-Parta Frædauna, elligar taki hañ fyrir sig Nidurradan Trwar-greinanna i þeim Sꜳluhialpliga Sannleika, eda og Parta Idranarinnar, og leitist vid ad fꜳ hina adra Trwarinnar Articula hiꜳ þeim innþrykta; Þessu nærst vijki hañ fra Barni til Barns, og gꜳngi ecki fyrir nockra sierdeilis gedsmuna sakir fram̃ hiꜳ, neinu þeirra, þvi hvert eitt Barn skal lꜳta Sofnudiñ heyra þad, þad hefur lært. Ef eitthvert Barnid getur eigi svarad til einnrar edur añrar Spurningar, þꜳ gꜳngi hañ fram̃ hia þvi og spyrie hitt annad ad þvi, sem stendur nærst, og þad ꜳn þess, ad ovirda hid annad Barnid med hinu minsta Ordi fyrir Søfnudinum, þvi Kennimaduriñ skal i þessu heilaga Verki fordast alla Hrecki og Manngreinar-ꜳlit; Þyki honum Børnin svara eigi nogu skyrt og skilianliga, þꜳ ꜳminni hañ þau med Hægd ad tala diarfliga, og so hꜳtt ad Folkid fꜳi þad skilid.

II.

Þegar Examen er endad, byrie Kennimaduriñ sialfa Confirmationina, og syni Børnunum og vijsi hvad mikilsverdur þeirra Skyrnar-Sꜳttmꜳli er, segi þeim og, ad þau skuli nw sialf itreka þad, sem Gudfedginin vid þeirra Skyrn hafa fordum Gudi heitid og lofad þeirra vegna, skal hañ og uppvekia þau til ad ihuga þetta grandvarliga. Þar eptir spyrje hañ sierhvert Barn sier i lagi og wtaf fyrir sig, hvert þad af øllu Hiarta afneiti Dieflinum, og øllu hans Athæfi, og øllum hans

Verk-

Verkum, (sem aÿdur aÿ vel ad wtskyrast, hvad þad hefur ad þyda;) Þar næst hvert þad af ollu Hiarta trwi aÿ GUd Fodur, Son, og Heilagan̄ Anda (eptir þad Presturin̄ hefur fyrst wtlidad vel Naÿttwru og Eginligleika þeirrar saÿluhiaÿlp-ligu Trwar.) J þridia maÿta, hvert þad vilie standa stodugt i þessum sijnum Skyrnar-Saÿttmaÿla fram̄ til sinnar sijdustu Saÿluhiaÿlpligu Endalyktar; þaÿ skal Barnid med skyru JA þad sama stadfesta og kroptugt giora, og handsala þad Prest-inum. Þegar saÿ sem confirmerast skal, hefur þetta giort, þaÿ leggi Kennimadurin̄, eptir Christi Dæmi, sina Hond uppaÿ Barnsins Hofud, og giori stutta Bæn, þessarar Mein-ingar.

Saÿ Þri-Eini GUd, sem fyrrum hefur medtekid þig ad vera sitt Barn i þeirri Heilogu Skyrn, og giort þig ad Erfingia eilijfs Lijfs, han̄ virdist ad vidhallda þier i þessari þinni Skyrnar Naÿd, allt til þinnar saÿluhiaÿlpligu Endalyktar; Han̄ gefi þier Stoduglyndi i þinni Trw, til Velferdar þinni Saÿlu.

Þegar þessi Vijgsla er giord vid hvert eitt Barn, þaÿ halldi Kennimadurin̄ faÿ-orda Rædu, og syni med henni Bornun-um, fyrst hvad þau nw hafa giort og heitid Gudi, og ad slijkt sie fullkomin̄ Eidur fyrir Drottni, hversvegna þau þvi miklu helldur sieu skulldbundin̄ ad hallda þess trwligar og fastara vid þan̄ endurnyada Saÿttmaÿla, samt alldrei nockrusinni yfirgefa þau sennu Evangelisku Trwarbrogd, eda i þeirra Lijf-erni og Frammferdi vijkia fraÿ þeim Sannindum, sem þar i eru innifalin̄, hver þau hafa nw medkendt og svarid sig til. J annan̄ maÿta, skal Kennimadurin̄ uppvekia þau aÿstkiæru Born til sannarligs Hiartans Þacklætis vid GUd, fyrir þaÿ Naÿd, sem GUd hefur laÿtid fram̄ vid þau koma i Skyrn-inni, og fyrir þaÿ Þeckingu, þeim er nw veitt aÿ þeim retta Vegi til Lijfsins, og ad þau nw skuli odlast þaÿ Naÿd ad inntak-ast i þeirra Tolu, sem niota Sætis vid JEsu Bord. J þridia maÿta aÿminni han̄ þau og hiartanliga til ad ihuga vel sin̄ Skyrnar Saÿtmaÿla, hvern þau hafa nw med Eidi stadfest, og ad þau laÿti alla Verolldina siaÿ og þeckia, ad þau eru nw komin i Saÿttmaÿla vid GUd, og ordin honum naÿskylld, so

ad

ad þeirra sannarligt Trwar, og retts Kristindoms Lios kunni ad skijna og lysa fyrir øllum Mønnum, ad þeir siai meigi þeirra Goodverk og dyrdki þeirra Fødur i Himninum. A hverium Tijma þau confirmerudu Børn vilia þar eptir gainga til GUds Bords er þeim i sialfs Valld sett, og þeirra egin Gyrnd og innvortis Hræringu, so og þeirra Forelldra Vilia, sem og Kennifedrunum, hvad þeim synist hentast þar um; Og jafnvel þo Kennimadurinn eigi ad raadleggia Børnunum, ad þau frammvegis skuli koma til ad uppfrædast i Catechismi Lærdomi med ødrum Børnum, þai mai þad þo vera eptir þeirra eigin Fry-vilia. Enn þar til skal Kennimadurinn hiartanliga aaminna og tilskyllda øll confirmerud Børn, at þau alldrei ann sannarligs Profs og Undirbwnings gaingi til GUds Bords, og ad þau ummfram allt kappkosti i Umvendan og Bæn ad koma þessu so til leidar, ad þau nw ad fyrsta sinni meigi gainga þar til med inniligri Hiartans Hræringu, þvi þad mætti orsaka alvarliga og kroptuga Innþrycking i þeirra Hugskot og Sailir, so leingi þau lifa: Ef fleiri enn einn Kennimadur er i Søfnudinum, þai leifist Børnunum vid Confirmationina ad gainga til Skripta fyrir hverium Kennimanni þau vilia: Enn þegar þessi Þionustu-giørd er endud, skal Kennimadurinn uppþvetia giørvallann Søfnudinn til hiartanligs Þacklætis, Lofgiørdar og Heidurs vid GUd, fyrir þai haaleitu og storu Naad, sem þessi Børn hafa ødlast, so og til hiartnæmrar Fyrir-bænar fyrir þeim hiart-kiæru Børnum, ad þau ætid vara meigi og verda stødug i øllu Goodu. Framar skal Kennimadurinn sameingliga uppvekia allra sinna Tilheyrenda Samvitskur ad athuga, hvernin þeir hafa halldid þai Lofun, sem þeir fordum giørdu i þeirra Skyrn, uppørvi hann þai og einnin til ad umvenda sier, og eptir JEsu Vilia ad verda sem Børn; Forelldrana skal hann aaminna, ad þeir af Hiarta þacki GUdi fyrir sijn Børn, styrki þau i øllu Goodu, og halldi þeim til ad koma i þai opinnberligu Catechisation, edur Uppfræding i Barna-Lærdominum; samt gaingi alla Tijma fyrir þeim med goodum Eptirdæmum, og einganvegin med hneixlanligum Ordum eda Verkum, bægi þeim verduga Heilaga Anda, sem nw hijlir yfir,

 þeirra

þeirra Bernum, frá þeirra Hiortum, so hverki þeir orsaki sier nie þeim Sálar-Tiopun, eda verdi Sálar-Mordingiar. Þetta allt skal hañ enda med þeirri hiartnæmu Bæn sem nw eptirfylgir.

amen O þu Eilijfi og Almáttugi GUd, Fadir Drottins vors JEsu Christi, og vor allra Fadir, af hveriũm allt Faderni hefur sitt Nafn á Himni og Jordu: Vier beigum vor Knie fyrir Þier, og grátbænum Þijna Fodurliga Elsku, med hverri Þu hefur hingad til elskad oss, og villt hier eptir elska oss; Þijnir Velgiorningar eru fleiri eñ vier getum talid þá rettiliga, og stærri eñ vier kunnum þá noogsamliga ad þacka: Þad er Þijn Giæska, ad vier lifum, og Þijn Miskunsemi, ad vier meigum vænta betra Lijfs eñ þetta er: Þu uppfrædir oss i þessu Lijfi, til ad ødlast hitt annad, sem Þiñ SONUR hefur oss forþienad, til hvers Þiñ Andi vijsar oss Vegin: Vier vorum naumliga innkomnir i Heimiñ, ádureñ Þu hreinsadir oss fyrir Vatns-Badid i Ordinu, af þeim Saurindum, sem vier færdum med oss: Þu hefur lofad ad vera vor Fadir, og medtaka oss, sem Þijns SONAR Brædur: Þu gafst oss Þiñ Heilaga Anda i Pant og til Vissu um Þiñ Kiærleika og Arfleifd þeirra Heilogu, sem hiá Þier er, oss til hins Besta: Vier lofudum aptur á mot, ad afneita Þijnum og vorum Ovin, ad ummflyia allt þad sem strijdir á moti þinni Dyrd og vorri Velferd: Þu hefur halldid Þitt Loford, þvi vier høfum reint Þig ad vera þañ besta Velgiorda Fodur allt til þessa Dags; Eñ hvernin vier høfum halldid vor Heit og Lofanir, þad er Þier alleina best kunnigt: Vier vitum ad sonnu, ad vier erum Syndugir, eñ þu veitst þo af fleiri og stærri Syndum hiá oss, eñ vier sialfir vitum.

Þegar vier bundum Sáttmála vid Þig, eñ Þu aptur á mot verkadir Trwna i oss, og gafst oss Þiñ Anda, vorum vier eñ þá Ung Born og kunnum ecki Handa vorra Skil, nie Footum vorum For-rád, samt var þad Þier þægiligt, ad vier ei ad sijdur, sem Smá Born skylldum koma til Þijn, þvij Þw villdir giora oss vissa um þañ Rett, sem vier af Þinni Nád høfum til Himna Rijkis, so framt sem vier ei siálfir forsomum slijkt Hiálprædi, og giorum oss overduga þess eilijfa Lijfsins.

Med

Med þvij eckert kañ jafnast vid Þijna Giæsku, þa er þad tilhlydiligt ad þier verdi fyrir hana opinberligt Þacklæti audsynt i Þijnum Søfnudi, hvern Þiñ SONUR hefur med sijnu dyrmæta Bloodi, so dyru Verdi keypt: Þad er naudsynligt, ad þad Þier hefur verid lofad af þeim, sem ei kunnu sialfir ad skynia, og þad Heit og Lofanir, sem adrir giørdu þeirra vegna, verdi af þeim sømu itrekad, þegar þeir vita ad giøra Skyrslu aa sijnum Hiartans Þaunkum, og þess helldur faai skulldbundid sig vid Þig: Þw vor GUd aavinnur Vegsemd þar med, þvi Þw ovirdir ecki, jafnvel þaa Lofgiørd, sem Þw tilreidir Þier af Munni Smaa Barnanna; þau styrkiast i Trwnni, og bindast med þess sterkara Bandi vid Þig; Þad er oss til Uppbyggingar, þegar vier heyrum, hversu þau kunna ad giøra Grein aa þeirri Von, er þau hafa.

Til þessara Erenda-giørda hafa mørg af þijnum Børnum aa þessum Degi hier samannsafnast, og ei alleinasta synt, ad þau eru uppfrædd um̃ Þiñ Vilia og Þijna Velgiørninga, eptir GUds Ordi og þeirri o-ummbreittu Augsburgisku Jaatningu, helldur og einnin hafa þau endurnyad þañ Saattmaala, sem vid Þig giørdu i þeirri Heiløgu Skyrn; Gef ad þeirra Hiørtu eptir þenna Dag adhyllist ecki nockurn, eda nockud, utan Þig alleina, og þad sem Þier er vel þocknanligt.

Hiaalpa Þw þeim til ad hugleida hvad stoora Naad Þu hefur þeim audsynt i þeirri Heiløgu Skyrn, þar þau, i Syndinni getiñ og fædd, høfdu forþienad Daudañ, urdu fyrir Endurfædingina so frelsud fraa hverutveggiu, ad Syndin kañ ei framar ad fordæma þau, og Daudiñ eigi helldur ad giøra þeim Skada, nær þau sialf vilia ecki syndga mootþrooanliga og deya eilijfliga. Var eigi Þijn Giæska yfrid stoor, sem giørdi þau fullviss um̃ Barna Utvalningina, jafnvel þo Þw hefdir laangtum betri Børn i þijnum einka SYNJ, fæddum fraa eilijfu, i þeim heiløgu Englum, sem allir eru þijn Børn, þo þeir sieu ecki Þijns SONAR Brædur. Þw hefur fyrir Skyrnina giørt þau hluttakandi i dyrligu Frelsi þinna Barna, og fullviss um̃ Þitt Fødurligt Hiarta, so og gefid þeim Rett til þess eilijfa Lijfs, og Lijfsins Coronu, giørt þau einnin ad Medborgurum þeirra

 Hei-

Heiløgu, og þijnum Heima mønnum; Kunnir Þw ad veita nockrum stærri Naad. Mundu þau kunna vænta stærri Good-semdar af Þier eda ødrum?

O Drottiñ! keñ þeim ad ihuga, hvad grunnlaus Þijn Giæ-ska er vid þau, og ad graata yfir þvij, hversu lijtid þau hafa skil-id af þessum Þijnum himneska Velgiørningi; keñ þeim ad aasaka sig sialf, sem Yfirtrodslu-Meñ fraa Moodur-Lijfi, hverra Hiartans Þanka Uppaasynding hefur verid vond fra Barn-doomi, ad þvi leiti, þau hafa þraaliga gengid aa Vegum sijns Hiarta, og eptir þvi, sem þeirra Augum hefur litist, hversu illa sem þeirra Hiortu og Augu hafa þess aa millum vijsad þeim Vegiñ; gef þeim ætijd þijna Naad til ad þeckia og idrast þess-ara Af-brota, hver ad eru gagnstæd Þijnum heilaga Vilia, og aamoti þvij, er þau hafa Þier heilagliga lofad.

Þijn Naad hefur sparad þau til þessa Tijma, so þau mættu i Þijns Safnadar Aheyrn endurnya þad Heit, aa moti hveriu Þu tokst af þeim, þaa Stund þau voru hreinsud fyrir Vatns-badid i Ordinu; Laat þau alla þeirra Lijfdaga aastunda ad hallda þær Lofanir, sem og einnin med Ugg og Otta, fyrir þvi, ad bregda af þeim nockru sinni, verka þeirra egin Saaluhiaalp; Frammkvæm þad i þeim, ad þau vilie þiona Þier, sem helgar þeirra Vilia; Verka Þw þad og einnin ad þau meigi wtretta þad Þw villt, og þau sialf eiga ad vilia, so hefdgar Þw þeirra Verk; og so sem þau aan Þijns SONAR, kunna olldungis eckert ad giora, þaa laat Hañ vera i þeim, og þau i Hønum, so ad Hañ og þau meigi vera eitt, lijka sem Þu og Hañ erud eitt, ad þau fyrir Hañ faai megnad þad þau af sialfum sier i eingan maata geta; Vert Þw þeirra Ungdoms Tiptunar-Meistari, so laata þau ei einasta af, ad giora þad vonda, helldur læra ad giora þad Gooda, so faa þau ei alleinasta Vidbiood aa þeim faa-nyta Hiegooma sem er i Heiminum, helldur leggia þar ad auki Kapp aa i Trunni ad audsyna allar þær Kristiligar Dygdir, sem Þier eru þocknanligar, og þeim sialfum mestur Soomi ad, so ad þau verda meige hreinir Bwstadir fyrir þiñ Anda, sem hefur hreinsad þau i Skyrninni, og er alltijd reidubwiñ ad med-deila þeim sijnar Gaafur.

Þau

Þau hafa nw goodviliugliga, og i allra vorra Aheyrn, lofad ad afneita Dioflinum, ollu hans Athæfi og ollum hans Verkum; Veit þeim Þijna Hialp, so slijkt falli þeim alldrei wr Minni; Lat þau med alvarligu Hatri hata alla Þijna Ovini, so sem þeirra Salar og Saluhialpar Ovini. Hindra Þw goodi FADIR, ad þau nockru sinni gefi Dioflinum þad Rwm, ad þau giori þad hañ vill, eda hlydi þvij hañ randleggur, þvi hans Athæfi er svikſamligt, og strijdir a mooti þeirra Frelsi, hans Giorningar eru skammarligir, og stofna til þeirra Fordiorfunar: Lat þau ecki falla i þær Ovinarins Hendur, fra hverium þw hefur þau frelsad, helldur hialpa þeim ad þioona Þier i Heilagleika og Rettlæti alla þeirra Lijf-daga; Og þo Sathan, þeirra Motstandari, gangi um krijng, þa banna honum ad svelgia þau; Upplys þeirra Skilnings Augu, so hans Radabrugg verdi þeim ecki okunnugt; Rett Þw þeim Skiolld Trwarinnar, ad þau i þeim sama geti wtslokt hans glooandi Þijlur; Lat þau af Rijkdomi Þinnar Dyrdar kroftugliga styrkiast, fyrir Þiñ Anda i þeim innra Manni, so Þiñ SONUR bwa megi fyrir Trwna i þeirra Hiortum, so verdur Hañ, sem er i þeim, meiri eñ sa, sem er i Heiminum, og þeim a moti, þau verda styrk, og fa yfirunnid þad Vonda, med Þijnu Ordi, sem hia þeim byggir.

Þau hefa nw skulldbundid sig til ad trwa a Þig, Þiñ SON, Þiñ og Þijns Sonar Heilagan Anda; hialpa þeim hvern Dag ad giora Enda a þeirra Lofunum, ad trwa a Þig af ollu Hiarta, og alldrei sleppa þeirri Trw, þau hafa Þier og Þijnum Heilogum lofad, helldur ad þau fylgia megi þeim orasklanliga, o-umbreitanliga, og o-apturkallanliga Sannleika, sem er þad eijlijfa Lijfsins Ord, og Veg-vijsir til eijlijfs Lijfs; Lat þau þeckia ad þau giora alldrei annad betra, eñ gefa grandvarligar giætur ad þvi sama hialpræđis Ordi, hvert, so sem eitt skijnandi Lioos i myrkvum Stad, skijni iñ i þeirra Hiortu, til Upplijsingar Þijns Sonar ypparliga Lærdomi; Lat þad upplijsa þeirra Skilning, helga þeirra Skilning, og gefa þeim Rad i ollum þeirra Athofnum; Lat þad, ad þau hafa kallad Þig Fodur, minna þau a þañ Heidur, sem good Born eru skylldug ad veita so goodum Fodur; Ad þau hafa akallad þiñ Son, sem er eiñ Drottiñ, vidhallda þeim Otta i þeirra Hiortum, hvern trwlyndir Þienara reiga ad veita þeim Herra, sem er Himins og Jardar Drottiñ; Ad þau hafa

 akallad

aakallad þañ Heilaga Anda, minna þau aa, hvernig þau eiga ad fylgia Hønum i þvij ad frammganga i øllum Sannleika, og aa Þijnum Vegum; Lat þau jafnframt alldrei gleima þvi er þau hafa svarid i Dag, og so fastliga þar eptir hallda, ad þau dagliga vardveiti Dooma Þijns Rettlætis.

Þijnir Þienarar hafa med Handanna Uppaaleggingu blessad þau, og bedid Þiñ Heilaga Anda ad auka sijnar Gaafur yfir þeim og i þeim! Drottiñ tak alldrei Þijna Hønd, eda Þijñ Heilaga Anda fraa þeim! Stiorna þeim, sem Þijnum Handa-Verkum! Utrettu Þijna Hønd til ad styrkia, hiaalpa, og veria þau moti øllum þeirra andligu Ovinum, og lat eingañ slijta þau wr þinni Hendi.

Þau hafa nw jaatad Þig opinberliga ad vera siñ GUd, sem og lioost giort ad þeim er ei okunnugt uñ Þig, Þiñ Vilia, og Þijnar Velgiørdir, hversvegna þeim er lofadur Adgaangur til Þins Sonar Heilaga Lijkama og Hans dyrmæta Bloods, i þvi Haaverduga Alltarisins Sacramenti. Lat þau alldrei, nema vel profud og undirbwiñ, framkoma til þvijlijkar saaluhiaalpligrar Maaltijdar, helldur hugleida hvers þau verda þar niootandi, og hvad eptir muni koma, ef þau mæta þar, sem o-verdugir Gestir. Iklæd þau Siaalfur þvij retta Brwdkaups Klædi, tilbw þau sem Þw villt Siaalfur þau sieu, og lat þau so taka aa moti Giædum Þijns Hwss, og þeim Heiløgu Hlutum i Þijnu Musteri, sem þau ed ætla sier ad lifa og deya ofud uñ ad verda hluttakandi i Þijnum Himni og Vegsemd, og i Þinni Dyrd og Saaluhiaalp. Verka þad, þau alldri gleimi, ad Þw hefur gefid þeim eitt Rwm i Þijnu Hwsi, eitt Nafn, sem betra er eñ Sona og Dætra. Hiaalpa þeim hvert siñ þau ganga uñ Þijn Andyri, ad finnast i Þijnu Hwsi, sem Þijnir Heimameñ, sem og inni og wti fyrir þvij, ad verda þeckter fyrir Þijna Syni og Dætur. Þijn Saaluhiaalpliga Naad agi og uppfrædi þau, ad fraafælast ogudligt Athæfi, og þær veralldligu Gyrndir, ad lifa hreinferduliga, rettferduliga og gudliga i þessum Heimi, so sem þau ed vænta, og eru viss uñ, ad þeim skuli eijlijfliga vel vegna annars Heims; Þvij nær þau þeinkia uñ Þig siñ Skapara i þeirra Ungdomi, þa villtu og einnin þeinkia til þeirra til hins Besta, hier og sijdar i Tijmanum og Eijlijfdinni.

Hiaalpa oss øllum, Gømlum og Ungum, Forelldrum sem Børnum, so Hws-bændum sem Þionustu-folki, ad hugleida og syrgia hvad litlu Þacklæti vier høfum offrad Þier fyrir Þijna Naad oss veitta i þeirri Heiløgu Skyrn, samt hversu illa vier høfum golldid Þier þau dyrmætu Heit, sem þaa voru giørd af oss; Þiñ goodi Heilagi Andi leidi oss hier eptir, til ad hafa Vidbiood aa øllu þvij, sem Þier misþocknast, eñ hallda fastliga vid Þig alleina; Sierdeilis lat oss alldrei med athugalausu og hneixlanligu Lijferni i Ordum, sem annad hvert strijda aa moti Þijnum opiñberudum Sannleika,

eda

eda ai moti soomasamlign Sidlæti, hneixla neina af heim Smælingium, og Unglingium, sem kunna ad vera hia oss, þvij þai mættum vier orsaka ei alleina vorum, helldur og so þeirra Saulum eilijfa Fordiorfun.

Strijd med og fyrir þijna strijdani Kirkiu, hverrar Limir þeir eru, sem i Dag hafa opinberliga giort sijna Trwar-Jautning; Þitt Heilaga Ord, og Þijn Hawerdugu Sacramenta vidhalldist hia oss, an minstu Ummbreitingar til Verolldarinnar Enda, ad vier fyrir þad hvertveggia mættum alltijd komast Þier nær og nær.

Þiñ Smurdi Vor Allra-naudugasti Arfa-Herra og Kongur, Kongur CHRISTIAN Siøtti, sie og veri blessadur af Þier nw og sijdar meir, i þessari og þeirri tilkomandi Verolldu; Lat Hañ uppskera Avøxtiñ, lijka einnin af þessa Dags Utrettingu, so ad Hañ alla þai, sem endurnyad hafa sijna Skyrnar Lofun, reina meigi gooda og hlijdna Þegna, er vita ad hver sai, sem ottast GUd, skal heidra Kongiñ.

Biood Lijfi og Luchu, biood Sooma og Heidri, biood øllum Þijnum Gooda ad vera hia og yfir Hennar Majestet, Vorri Allra-naudugustu Drottningu, SOPHIA MAGDALENA, Hennar Veger stadfestist i Þijnum Otta! Þiñ Vilie sie Hennar Majestets Vilie, og lat alldrei af ad gefa Henni nya Vitnisburdi um Þijna Guddomliga Elsku.

Hans Konungligu Hauheit, Vor Naudugasti Arva-Prince og Herra, Prince FRIDERICH, samt baudar þær Konungligu PRINCESSUR finni vid hvert Foot-mail þau gainga, Þig, sem Vegvijsara, og Þijna Miskun, sem Varatekt; Bw Þw i þeirra Hiortum, og lat Þau hvijlast ai Þijnum Ørmum. Gior vel vid þad giorvalla Konungliga Arfa-Hws, giæd Þw þad med Þinni Naud, og auktu Þijnar Blessanir yfir Þvij! Tak ad Þier allañ Kristinndomiñ! Veittw Adstod og Forsvar þessum Rijkium og Londum, samt hverium einum Innbyggiara i þeim; Gef oss Frid allt um kring, eñ allrahellst vid ÞIG! Vardveittw oss fra næmum Siwkdomum, eñ sierdeilis frai þeirri Synd, sem saurgar vorar Saulir! Utbyttw Braudi til allra hwngrada Munna! Uthelltw Huggun i allra sorgbitinna Hiortu! Þijn Hond forsvari allar Eckiur, Fodurlausa og Yfirgefna. Þitt Auga siai fyrir Vegfarendum! Þijn Blessan fylgi þeim er leita sinnar Atvinnu! Þitt Heilaga Ord umvendi þeim Syndugu! Þijn o-endanlig Miskun taki aþ Ummvendtu til Naudar! Verkadw þad, ad Saulum þeirra Siwku vel lijdi, og vijsa hinni sijdustu Andvorpun þeirra sem deya i Trwnni, Vegiñ til Þijns Hiarta! Gef oss øllum meir eñ vier hofum umbedid, samt meir eñ vier skynium ad bidia! Vardveittw allañ vorn Anda, og Saul, og Lijkama ostraffanliga allt til vors Drottins JEsu Christi Tilkomu! Amen i JEsu Nafni Amen.

Sijdan lesist **Fadir Vor!** og **Blessunar Ordin!** og ad endudu

þessu

þessu Heilaga Verki, syngist: **Herra GUd i Himna Rijki** rc. Þar eptir skal lesast af Diaknanum su veniuliga Bæn i Koor-Dyrunum, hvar med øll GUds Pionustu-giørd i þad sin skal vera lyktud og au Enda.

12.

Pad Kennimennina aahrærir, sem Confirmationina skulu handtiera: þa meiga Forelldrannir i þeim Stødum, hvar ed fleiri eru en einn Kennimadur (en hvar ecki nema einn Kennimadur er, þar helldur hann bædi Yfirheyrsluna og Confirmationina) þvij rauda, ad senda sijn Børn, hverium Kennimanni þeir vilia; Sau hinn sami undirvijsi Børnunum heima i sijnu Hwsi; En vid Confirmationina yfirheyri hver einn Kennimadur þau Børn, sem hann hefur uppfrædt, og þad eptir þeim Forgaungu-Retti, sem er milli þeirra i Tilliti þeirra Embætta; Sau eini lauti þann annann hafa Tijma þar til; Sau eini confirmerar einusinni, hinn annar ødrusinni. I þeim Stødum, hvar þad hefur verid Venia hingad til ad gefa nockud fyrir þeirra Yfirheyrslu, sem i fyrsta sinn vilia gaunga til GUds Bords, þar mau en nw framvegis sierhver Kennimadur niøta þess fyrir sitt Omak, þo med þvij mooti ad vægt sie þeim Fautæku; En i þeim Stødum, hvar slijkt hefur ecki verid hingad til Venia, þar mau Søfnudinum ecki ofþyngia med neinum nyum Aløgum; Skal þad eginliga hier med skiliast og athugast, ad þetta Heilaga Verk skulu Kennimennirnir i øllum Kringumstædum lada og giøra til Safnadarins Uppbyggingar, og Tilheyrendurnir hegda sier au medan, sem endrar nær, med Heilagri Gudrækni; Hier eptir skulu aller vidkomendur i allri Undirgefni sier hegda, og giøra ecki hier au mooti, eptir þvij sem fyrirskrifad stendur, nockra Hindrun eda Baga i neinn Mauta, vilie þeir ei missa Vora Hollustu og Naad: Bioodum Vier og skipum hier med Vorum Statholder i Voru Rijki Norveg, Greifum, Stift-Befalings-Mønnum, Frij-Herrum, Biskupum, Amt-Mønnum, Landsdomurum, Løgmønnum, Præsidentum, Borgmeisturum og Raudi, Fogetum og øllum ødrum, sem þessi Vor Forordning med undirþricktu Voru Cancellie Signeti tilsend verdur, ad þeir hana au tilhlijdiligum Stødum, sem og einnin af Predikunar-stoolnum øllum til Eptirrettingar strax lauti lesa og auglysa. Utgefin af Voru Sloti Frideriks-bergi þann 13. Januarii. Anno 1736.

**Undir Vorri Konungligri Hønd og Signeti.**

# Christian R.

